# Løg-Þingis Bookin,

Innehaldande þad, sem giørdiz og fram-foor fyrer Løg-þingis-Rettinum Anno 1777.

Prentud ad Hrappsey,
i þvi nyja konúngl. privilegerada bokþrykkerie 1777,
af Gudmunde Olafssyne.

## Num. I.

Anno 1777. þann 8da Júlii vid Øxará var af Hr. Løgmannenum **B. Marcussyne** sett eitt almennilegt Løgþíng, og til Løgþínges Rettarenns Þienustu nefnder eftirskrifader Løgrettumenn, nefnelega:

Ur Arnesß Þinge.

Gunnar Høgna son, Jón Brinjólfsson, Einar Haflída son, Gunnar Haflída son og Biarne Einars son. Ur Kialarnesß Þinge.

Þorkell Þordarson, Oddur Jóns son Hialtalín, Niels Jóns son Hialtalín, Þorkell Jónsson og Hallur Jóns son.

## Num. II.

Málspartar innfundu sig einger, var því frá Rettenum geinged.

## Num. III.

Þann 9da Júlii settest Hr. Løgmadur Biørn Marcússon i Løgrettu mætte so fyrer Rettenum Jón Kolbeinsson frá Skaftafells Sýsslu, sem segest hafa 2. Løgþínges Stefnur yfer Sýsslumanne Jóne Helgasyne, sem i fyrra 1776. hafe framlagdar og upplesnar vered; Enn søkum þess ad hvørke hann nie adrer vidkomendur hafe mætt, hafe þeim Løgdagur lagdur vered til þessa Løgþínges, sem Alþingesbókarennar af 1776. Num. 16. og 17. med sier ber; Var so uppleseð foreleggelse i því so kallada Vogreksmále og not. Lit. B. Hvørke Sýsslumadurenn Jón Helgason nie adrer vidkomendur Sakarennar mæta her enn nú, þó upphrópader vered háfe; framlagde so Jón Kolbeinsson Proces og Dóm i Søkenne geingenn ad Borgarhøfn þann 1sta og 15. Decembr. 1775 samt 18 Januarii 1776. I hvørs slútníngu Sýsslumadur Jón Helgason dæmer Jón Kolbeinsson til ad missa sína Húd i Fángelse, og hanns Búslod ad vera til Kóngsens forbrotna, sem fyrer Smáþiófnad i fyrsta sinne, so og til ad skila

aftur til Biörns Brinjólfssonar þvi hann med Ráne og Þióśnade hafe til sin tekeđ, einenn ad betala 30. al. til Þorsteins Pálssonar innann 6. vikna, med vidara sem Dómurenn innehelldur, upplesenn not. Lit. C. Enn nú framlagde Jón eina Besigtelses Forretning af 18. Júnii 1776. giörda af Klausturhalldaranum Sigurde Olafssyne og tilteknum 6. monnum, yfer nefnd Rekatre, sem upp ráku á Fells fioru Sumared 1774. upplesenn not. Lit. D. Vidara framlagde hann einn Victualeibslu Act af 19. Júnii 1776. geingenn ad Borgarhøfn af Klausturhalldaranum Sigurde Olafssyne vidvikiande burtflutníng triánna af Fells fioru, med vidara, upplesenn not. Lit. E. Rech framlagde hann eitt Innlegg under nafne Þorsteins Pálssonar af 17da Júnii næstl. um hanns forsøll ad mæta fyrer Løgþinges Rettenum, samt hanns Action i Herade uppleseđ not. Lit. F. Innleggenu fylgde Attest 3ia manna um Þorsteins Pálssonar fátæklegt ástand, Dat. 14. Júnii sidstl. upplesed nor. Lit. G. Jon Kolbeinsson begerer ad hann meige enn nú vidara framfæra sitt Forsvar og Action i Søkenne; enn so sem eingenn af þeim stefndu vidkomendum eru nú til Stadar, so gefst Anstand til ad mæta fyrer þessum Løgþinges Rette þann 14. Júlii, til hvørrar tidar Søkenn er nú útsett.

## Num. IV.

Þann 11ta Júlii settest Hr. Løgmadur Sølvason i Løgrettu og eptersþurde hvørt nockrer Málspartar úr Nordann og Vestann Løgdæmenu være til Løgþingesens komner? hvar til nálæger Løgrettumenn svørudu nej.

## Num. V.

Sama dag ad Hr. Løgmanne B. Marcússyne i Løgrettu setstum, mætte Jón Kolbeinsson og framlagde eina Løgþinges Rettar Stefnu af 26. Martii 1776. yfer Dóme Sýsslumannsens Jóns Helgasonar vidvikiande Barnsfadernes lýsingu Wigdísar Hoskuldsdóttur uppá Jón Kolbeinsson, sem her i Rettenum næstl. ár var produceret, uppá sømu Stefnu er skrifad foreleggelse til

Sakarennar vidkomenda ad mæta á yferstandande Løgþinge, dat. 17da Júlii 1776. þad upplesed noterast eins og stefnann Lit. A. Þvi næst framlagde hann Proces og Dóm i þessare Søk geingenn af Sýsslumanne Jóne Helgasyne ad Borgarhøfn þann 30. Novembr. 1775. i hvørs slútníngu Sýsslumadur Jón Helgason innstiller Eyds aflegging og anteknúng Jóns Kolbeinssonar fyrer þennann Løgþinges Rett, hvoriu ef Jón forsóme løglega ad framfilgia, dæmest Rettur nefndrar Wigdísar óhindradur og óspiltur til ad afleggia Sigtelses edur Bekræftelses Eyd uppá hennar Lýsingu, i Málskostnad er Jón dæmdur ad betala 20. al. med vídara sem same Dómur inneheldur upplesenn not. Lit. B. Jón Kolbeinsson begerer ad Søkenn mætte fyrertakast, enn so sem Sýsslumadurenn Jón Helgason mæter her enn nú ecke, so útsetst þesse Søk til næstkomande Mánudags.

## Num VI.

Sama dag mætte fyrer Løgþinges Rettenum bonden Gunnar Jónsson og framlagde Løgþinges Rettar Stefnu af Dato 4. Octobr. 1776. under Hende og Signete Hr. Løgmannsens Biørns Marcússonar, hvar inne stefnest Sýsslumadur Lydur Gudmundsson og hans 6. Megdómsmenn til ad forsvara þeirra þann 10. Júnii 1775. ad Hollte i Mýrdal geingenn Proces og Dóm i því so kallada Stórhøfda Saudbeitar Mále. Petursøyar ábúendur eru og so stefnder, ásamt sømu Jardar Eigendur og Umbodsmenn, efter sem sama Stefna vidkomendum auglýst vídar medfører upplesenn not. Lit. A. Eingenn af þeim stefndu eru enn nú til Løgþingesens komner, er þvi þesse Søk útsett til næstkomande Þridiudags.

## Num. VII.

Þann 12. Júlii settest Hr. Løgmadur B. Marcússon i Løgrettu og eftirspurde hvørt nockrer fleire Málspartar være til Løgþingesens komner? hvar til nálæger Løgrettumenn svara Nej.

## Num. VIII.

Þann 14. Júlii ad Hr. Løgmanne B. Marcússyne i Løgrettu setstum, mætte enn ad nýu Jón Kolbeinsson og Sýsslumadur Jón Helgason til ad svara til þeirrar her ad framann under Num. 3. vid Retten anhængig giørdu Sakar, framlagde so Jón Kolbeinsson eitt Innlegg af dags Dato, hvar med hann demonstrerar Sakarennar áslgkomulag og átelur Sýsslumannsens Jóns Helgasonar Dómara adgiørder, samt begerer tilstreckelega Satisfaction med vídara, sem þad innehelldur uppleséd not. Lit. H. Annad Innlegg framlagde hann af dags Dato, mót Actore i Herade Þorsteine Pálssyne fyrer grófar i Rettesettelser med vídara, sem þad medfærer uppleséd not. Lit J. Sýsslumadur Jón Helgason framlagde sinna Meddómsmanna Fullmagt af 14. Júnii sidstl. ad svara til Stefnunnar af 26, Martii 1776. upplesenn not. Lit. K. Jon Kolbeinsson framlagde Kalfafellsstadar Kyrkiu Sóknar Manna Vitnesburd um hanns hegdan og breitne dat. 12. Febr. 1776. upplesenn not. Lit. L. Kostnadar Reikníng til þessarar Sakar útfærslu framlagde Jón Kolbeinsson uppá 41 Rdr. 1. Mk. 4. Sk. upplesenn not. Lit. M. Sýsslumadur Jón Helgason uppástendur, ad so sem Jón Kolbeinsson sie dæmdur i pœnam infamantem, enn Løgþínges Stefnann sie ecke úttekenn innann 6. vikna frá Dómsens Dato, so protesterar hann móte, ad nockur Action i Søkenne framfare, og þar hiá uppástendur ad Jón Kolbeinsson hafe hreint tapad Søkenne, enn sier af honum tildæmest fornøjeleg Satisfaction Kostur og Tæring, hvar yfer hann og so begierer Rettarenns Kiendelse, sem soleides var afsagt af Hr. Løgmanne B. Marcússyne:

Herads Dómur Sysslumannsens Jóns Helgasonar og hanns Meddómsmanna er afsagdur þann 18 Janúarii 1776 med hvørn Jón Kolbeinsson hefur þá strax declarerad sig ófornægdann ad vera, hvar uppá hann þann 16. Februarii næst epter hefur skriflega begiert Løgþíngs Rettar Stefnu, jafnvel þott hún søkum vegaleingdar ecke kunne útgefast fyrre enn þan 26. Martii, því álíktar Retturenn, ad Herads Dómurenn sie i tíma løglega átal enn

enn, og á Þvi Sysslumadurenn Jón Helgason og vidkomendur hier efter Løgþinges Stefnunnar hliódan, til Málsens ad svara og Dóm líða, i følge Forordningen af 19. Decembr. 1749.

Þvi næst framlagde Sýsslumadur Jón Helgason Innlegg af dags Dato under sínu nafne vidvíkiande Jóns Kolbeinssonar adtekt og Medhøndlan tiánua, sem uppráku á Fells fioru med vidara sem Þad med sier ber, uppleseo not. Lit. N. Annad Innlegg framlagde hann af dags Dato sínum Dómara adgiørdum til forsvars med vídara, uppleseð not. Lit. O. Enn nú framlagde hann Extract af Skaftafells Sýsslu Herads Protocol frá Anno 1701 til 1716. Inclusive um Lýsingar á Vogrekum, uppleseun not. Lit. P. Vídara framlagde hann Biørns Brinjólfssonar og Sigurdar Guttormesonar Attest um tiánna ásigkomulag dat. 17da Januarii sídstlidna, uppleseð not. Lit. Q. Þar med filgdu 4. Birke-Spítur ein med 4um og Þriár med 2ur Innsiglum. Kostnadar Reikning uppá Þessa Søk framlagde hann uppá 30. Rdr. 50. Sk. dat. 14. hujus upplesenn not. Lit. R. Jón Kolbeinsson framlagde Fullmagt Málsrídar Brinjólfsdóttur ad taka til sín Þad sem reka kann á Fells fioru og henne kann tilheira dat. 18, Novembr. 1674. uppleseð not. Lit. S. Vídara søgdust Málspartarner ecke hafa ad framfæra.

## Num. IX.

Sama e. m. settest Hr. Løgmadur Biørn Marcússon i Løgrettu, mætte so Jón Kolbeinsson enn á ný til ad agera Þá Søk, sem under Num. 5 er fyrertekenn og framlagde ejtt Innlegg af dags dato sem er hanns Paastand og Irettesættelse móte Sýsslumanne Jóne Helgasyne, uppleseð not. Lit. C. Sýsslumadur Jón Helgason framlagde Innlegg af 12ta hujus hvar med hann vill forsvara sínar Dómara adgiørder i Herade, og uppástendur síns Dóms Confirmation, med vídara uppleseð not. Lit. D. Enn nú framlagde hann Innlegg under nafne Þorleifs Halldórssonar dat. 27. Júnii sídstlidna, hvar inne hann uppástendur ad Vigdíse Hoskuldsdóttur tildanest ad afleggia Stadfestingar Eyd uppá hennar lýsingu, med vídara sem Þad med sier ber, uppleseð not. Lit.

E.

C. Vidara søgdust Málspartanner ecke hafa ad framfæra i Sókn edur Vørn, under endelegann Dóm.

## Num. X.

Sama e. m. framkom fyrer Løgþinges Rettenn Einar Sæmundsson og framlagde eina Løgþinges Rettar Stefnu af 24. Július 1776. under Hende og Signete Hr. Løgmannsens Biørns Mareússonar, hvar med stefnest Sýsslumadurenn Steindór Finnsson til ad framleggia og forsvara þá Resolution, sem hann Ølves Sveitar Hreppstiórum hafe útgefed um Omagans Snæbiarnar Þorsteinssonar flutníng á Hraungerdes Hrepp, einnenn ad forsvara þann Proces og Dóm sem hann þann 18. Maji og 22. Júnii 1776. afsagt hafe i þessare ómaga Søk, so og stefnast Ølves Sveitar Hreppstiórar nefnel. Þorlákur Gudmundsson, Thomas Einarsson, Nicolas Jónsson, Gudmundur Haflídason og Halldór Gunnlaugsson ad svara til Sakarennar, med vídara sem sama Stefna vidkomendum auglyst medfærer, upplesenn not. Lit. A. Var þvi næst produceret Innlegg under nafne Sýsslumannsens Steindórs Finnssonar af dags dato hvar inne hann uppástendur, ad þessare Søk verde vegna Actorum Incompetentiam, med Dóme afvísad, og Hreppstiórarner i Hraungerdes Hrepp verde mulcterader. sem temere litigantes med vídara sem þad medfærer uppleſed not. Lit. B. Þvi næst framlagde Einar Sæmundsson Proces og Dóm i Søkenne af 18. Maji og 22. Júnii 1776. geingenn ad Hraungerde af Sýsslumannenum Steindóre Finnssyne, i hvørs slútníngn ómagenn Snæbiørn Þorsteinsson dæmest, ad underhalldast af Hraungerdis Hrepp, og hanns Forsorgun frá þvi hann var af Hraungerdis Hrepp fyrst fluttur til baka á Ølves Sveit inntil Sakarinnar Endaliktar, betalast med 5. fiskum fyrer hvøria Viku til Ølves Sveitar, enn Hreppstiórar i Hraungerdes Hrepp ad betala 1. Mørk hálft til Kóngs og hálft til Ølves og Hraungerdes Hreppa samt 20. al. i Proces kostnad med vídara sem same Dómur innehelldur, upplesen not. Lit. C. Vidara var framlagt Innlegg af 3ia hujús under nafne Hreppstióra

stióra

stióra i Olves Hrepp, hvar inne þeir uppástanda Herads Dómsens Confirmation og Proces Kostnadar betalíng til sín af Hreppstiórum i Hraungerdes Hrepp, uppleсed not. Lit. D. Innlegg framlagde Einar Sæmundsson under sínu nafne ásamt annara Hreppstióra i Hraungerdes Hrepp, af 3ia hujus, hvar inne þeir átelia Sýsslumannsens Dómara adgiørder med vídara, sem þad med sier ber, uppleсed not. Lit. E.

## Num. XI.

Þann 15da Júlii settest Retturenn ad nýu og framlagde so Sýsslumadurenn Steindór Finnsson eitt Innlegg af dags Dato, sem er hanns Replique uppá Innlegg Hreppstióranna i Hraungerdes Hrepp, samt Paastand ad þeir fyrer grófar Beskyldníngar betale til sín pro persona 6. Rdr. og eins miked til Justitz-Cassen, uppleсed not. Lit. F. Vídara søgdust Partanner ecke hafa ad framfæra under endelegann Dóm.

## Num. XII.

Sama s. m. settest Hr. Løgmadur S. Sølvason i Løgrettu, mætte so fyrer Rettenum Mr. Jón Jónsson og framlagde eina Løgþíngs Rettar Stefnu under Hr. Vice-Løgmannsens Jóns Olafssonar Hende og Signete af Dato 9. Decembr. 1776. hvar med stefnast Þordur Helgason og Helge Helgason sin og Bródur síns Sigurdar vegna, so vel sem Eckiann Ranveig Magnúsdótter med sínum Rádamanne og Dótter hennar Sigridur Helgadótter øll i Wogum verande, til ad framleggia sin Original Eignar Skiøl, fyrer þeim 17 hund. i Wogum sem Christinu Sál. Jónsdóttur skule hafa tilheirt, og ad forsvara somu Skiøl, eirnenn stefnast Dómsmenn i Herade, samt fyrer Processens Skullð Sýsslumannsens Sál. Halldórs Þorgrimssonar Erfingiar til ad forsvara geingenn Proces og Dóm i þessu mále á Lækiarbugs Herads þinge þann 18. og 23. Aprilis samt 11 Júnii 1776. med vídara sem Stefnann innehelldur uppleсenn not. Lit. A. Innlegg framlagde Þordur Helgason under sínu og Helga Helgasonar

sonar nefnum af dags dato, hvar inne þeir begera ad Søkenne sie afvísad, þar Sýsslumannsens Sal. Erfíngium sie ecke enn nú stefnt, og uppástanda Proces Kostnad, uppleſed not. Lit. B. Her uppá svarar Actor Mr. Jón Jónsson ad hann fráfalle allre Action móte Sýsslumannsenns Sál. Erfíngium, og vonar ad Søkenn meige eingu ad sídur fyrertakast og agerast.

## Num. XIII.

Sama e. m. ad Hr. Løgmanne B. Marcússyne i Løgrettu setstum, mætte á ný Gunnar Jónsson og framlagde Proces og Dóm geingenn af Sýsslumanne Lýd Gudmundssyne þann 6ta og 7da Maji same 10. Júnii 1776. i þvi so kallada Stórhøfda Sandbeitar Máli, i hvørs slútníngu, ad Afrettar-Plátsed Stórhøfde er dæmt ad vera átølulaus Eign Petursøyar, ad fráteknu Itake sem Keldudalur kann þar i eiga, og ad eingenn mege sier greint Pláts hagnyta framar enn Landsdróttens edur Petursøyar ábúenda leise þad epterlætur, enn Gunnar ad betala fyrer hagbeit til Petursøyar ábúenda 30. al. it. fyrer grófar Sakargifter 15 al. og 4. Rdr. Croner i Proces Kostnad, med vídara sem same Dómur medfærer uppleſenn not. Lit. B. Þvi næst framlagde Mr. Gunnar Begering til Sýsslumanns Lýds Gudmundssonar af 9. Maji 1776. und-er sínu nafne, ad giøra Granskníng og Alit á Austurhúsa Dýrhóla og Peturs-øyar Hagbeitar Lande. Þar uppá er skrifad Sýsslumannsenns Lýds Svar af 13. Maji 1776. uppleſed not. Lit. C. Enn nú framlagde hann Innlegg af 15. hujus, hvar inne hann átelur Sýsslumannsens Lýds Dómara adgiørder med vídara sem þad med sier ber, uppleſed not. Lit. D. Innleggenu fylgde eitt Do-cument under Sýsslumannsens Lýds Gudmundssonar nafne af 23. No-vembr. 1775 vidvíkiande beit i Stórhøfda med vídara uppleſed not. Lit. E. Enn nú framlagde hann Innlegg af dags Dato móte Actore i Herade sem þad vídar medfærer uppleſed not. Lit. F. Sýsslumadur Lýdur mæter sin og Med-dómsmanna vegna og framlagde Innlegg under nafne Jóns Jónssonar af 28. Júnii sidstl. hvar med hann vill forsvara sina Action i Herade med vídara, upp-leſed

leseð not. Lit. G. Innlegg framlagðe og Sýsslumoður Lýður aí 14. hujus hvar inne hann uppástendur að Gunnar dæmest sem temere litigans að betala til Justits Cassen, með víðara sem það með sier ber uppleseð not. Lit. H. Enn nú var produceret Innlegg Prófastsens Síra Þorleifs Biarnasonar sem Eiganda Petursehar og vegna Petursehar ábúenda, af dags Dato uppleseð not. Lit. J. Løgrettumaður Gunnar Høgnason mæter efter Fullmagt Prestsens Síra Páls Sigurdssonar, Mr. Einars Brinjólfssonar og Høgna Benedixsonar dat. 1. hujus, upplesenu not. Lit. K. Framlagðe hann so eitt Innlegg af dags Dato, hvar inne hann begerer fullkomna Satisfaction fyrer óløglega Máls ýfing, uppleseð not. Lit. L. Víðara søgðust Málspartanner ecke hafa að framfæra under endelegann Løgþinges Dóm.

## Num. XIV.

Þann 16. Júlii afsagðe Hr. Løgmaður Sveinn Sølvason filgiande Affsigt í Máli Mr. Jóns Jónssonar á Groustøðum móte Þorðe og Helga Helgasonum.

Sú her i Løgþinges Rettenn framlagða Stefna af *Dato* 9 *Decembr.* síðstliðna, áhrærande *Proces* og Dóm geingenn að Lækiarbúg i Myra Sysslu þann 18. og 23. *Aprilis* samt þann 11ta *Junii* 1776. hefur aldrei vereð auglyst nockrum af Sál. Sysslumanns Halldórs Þorgrimssonar Erfingium, hvørra þott þar inne *pro forma* sie minnst, samt er eingenn nafngreindur, og kann þvi sama Stefna ecke gyld antakast, helldur er henne hier með endelega frávísað, enn *Citanten* Mr. Jón Jónsson á Grónstøðum betale báðum Málspørtunum, Þorðe og Helga Helgasonum, hvørier efter þessare Stefnu hafa sig hingað til Løgþingsens ómakað, 2 Rdr. eður gildar 60 al. á Landsvísu i Kost og Tæring, hvað lokeð sie innann næstkomande Michaels-messu, under Aðfør og *Exsecution.*

## Num. XV.

Sama dag var Þorlákur Gestsson nefndur til ad vera Løgrettumadur i Kiósar Sýsslu og aflagde hann sinn Eyd.

## Num. XVI.

Sama e. m: ad Hr. Løgmannenum B. Marcússyne i Løgrettu setstum, mætte Sýsslumadur Lýdur Gudmundsson efter Hr. Amtmanns O. Stephanssonar Ordre af 14. hujus til ad gánga i Rett vegna Þorodds Sæmundssonar, sem þær med sier bera upplesnar not. Lit. A. Framlagde hann svo eina Løgþíngs Rettar Stefnu af 24. Júlii 1776. hvar med Sýsslumadur Steindór Finnsson stefnest til ad forsvara geingenn Dóm ad Hraungerde þann 22. Júnii 1776. i Vistar Søk Helgu Arnþorsdóttur, svo stefnest og Einar Eiriksson til ad forsvara sina Máls Sókn i Herade, efter sem sama Stefna Hlutadeigendum anglýst útvísar upplesenn not. Lit. B. Sýsslumadur Steindór producerade eina Contra Stefnu af 10. Maji sidstl. i þessare Søk, hvar med Contra stefnest Þoroddur Sæmundsson á Stóra Armóte ad forsvara sinn Memorial af 23. Júlii 1776. i einu og øllu, Contra Citantens Demonstrationer og Paastand ad áheira og Dóm lída, med vídara sem sama Contra Stefna med sier ber upplesenn not. Lit. C. Þvi næst framlagde Sýsslumadur Lýdur proces og Dóm geingenn ad Stóru Sandvík þann 17. Maji samt ad Hraungerde þann 22. Júnii 1776. i hvørs slútníngu Þoroddur Sæmundsson er dæmdur ad betala 30. al. til Sandvíkur Hrepps Hreppstióra, i Sakeirer hálf mørk og 20. al. i Proces Kostnad fyrer óløglegt Halld i Vist Helgu Arnþorsdóttur med vídara sem same Proces og Dómur innehelldur upplesenn not. Lit. D. Innlegg framlagde Sýsslumadur Lýdur under nafne Þoroddar Sæmundssonar af 3. hujus, hvar inne hann uppátalar Herads Dómarans adgiørder i Søkenne med vídara sem þad medfærer uppleséd not. Lit. E. Sýsslumadur Steindór Finnsson framlagde Innlegg af Dags Dato, sínum Herads Dóme til forsvars med vídara sem þad med sier ber uppleséd not. Lit. F. Uppá Einars Eiriks-

riksfonar vegna framlagde Sýsslumadur Steindór eitt Innlegg af 3. hujus hvar inne hann uppástendur ad Herads Dómurenn verde Confirmeradur samt Proces Omkostninger med vídara, uppleſed not. Lit. G. Enn nú framlagde Sýsslumadur Steindór Finnsson Innlegg under sínu nafne af Dags Dato, sem er hans Paastand og Iretteſettelſe mót Þorodds Sakargiftum med vídara sem þad innehelldur, uppleſed not. Lit. H. Innleggenn filgde Atteſt 8. Þingvitna i Herade af 15. Júnii næstl. uppleſed not. Lit. I. Actor Sýsslumadur Lýdur uppástendur vegna Þoroddar ad þær af Sýsslumanne Steindóre Finnssyne á Þorodd dæmdu Bætur verde upphafdar, ſøgduſt ſo Partarner ei hafa vidara ad framfæra under endelegann Dóm.

## Num. XVII.

Þann 17da Júlii ad Hr. Løgmanne Sveine Sølvasyne ſetſtum i Løgrettu mætte Hr. Vice-Løgmadur Jón Olafsson og framlagde eina Løgþinges Rettar Stefnu under Hende og Signete Hr. Løgmannſens Sveins Sølvasonar af dato 6ta Februarii ſidſtl. hvar med ſtefnaſt Sýsslumadur Magnús Gíslason og hans tilkallader Beſigtelſes menn, til ad forsvara þeirra Utteſtar og Taxations Forretning yfer Þingeyra Klausturs Kyrkiu Hús og Inventarium, ad Þingeyrum frá þeim 8da Augusti til þeſs 17da ejusdem inclusive næstlidens árs 1776. eirnenn ſtefneſt Klausturhalldarenn Gísle Thorlacius sína angefníng af 23ia Júlii 1774. ad forsvara med vídara sem Stefnann innehelldur, uppleſenn not. Lit. A. Sýsslumadurenn Magnús Gíslason mæter her ei, ecke helldur Klausturhalldarenn Thorlacius, enn i Rettenum præſenterade Hr. Amtmadur Olafur Stephansson og gaf til kynna, ad Hanns Majſt. hefde allranádugaſt forordnad eina Commiſſion i hvørre ſo vel þeſſe her innſtefnda Sok Þíngeyra Klausturs, ſeinuſtu Utteſter augángande, eige ad fyrertakaſt, ſo vel sem Hans Majſts. Fordríngar i Sál. Sýsslumanns Biarna Halldórssonar Sterfbúe afgiøraſt, med vídare sem þad Kóngl. Commiſſorium kann med ſier ad færa, er Sýsslumannenum Halldóre Jacobssyne er feinged i hendur,

 hvørn

hvörn menn vita ei enn nú híngad til Landsens komenn, helldur væntanlegann med einu af vestann Skipum. Cammer Breffins Datum, so vel sem þeirrar Utskrifter er Hr. Amtmadurenn i höndum hefur af Höibemte. Skrivelse til Hr. Vice-Lögmanns Jóns Olafssonar þessa Sök angángande, hvorttveggia produceret fyrer Rettenum, er af dato 26. Aprilis þessa árs, i Krafte af hvöriu so vel sem Incompetentia fori i einne Sök er angeingur Hans Majsts. Háa Interesse. Hr. Amtmadurenn uppástendur ad Stefnunne so vel sem Sökenne sie fráwísad til þess af Hans Majst. forordnada retta forum, Hr. Vice-Lögmadurenn formeinar ad Sakarennar retta forum efter hennar Nátturu og Beskaffenhed sie Lögþínged, þar sem her sie ad giöra um Granskníngar og Besigteiser i Krafte af N. L. 1. B. 16. Cap. enn þar sem þad Kóngi. Cammer Collegium hefur nádugast funded fyrer gott ad innstiûa Þíngeyra Klausturs Uttektar Sök inn fyrer eina Commission, so uppástendur hann ecke ad Sökeñ her endeiega fyrertakest, vonande ad hann befriest frá Commissionens medfærande Udgifter, hvad Hr. Amtmadurenn meinar ad her eige ecke ad koma i Qvæstion helldur fyrer Commissionenne siálfre, hvör Omkostníngerne eige ad tilsvara, sem væntanniega kome þeim til af Málspörtunum er Commissionena hafe deels begert deels foraarsaket.

## Num. XVIII.

Þann 18da Júlii affagde Hr. Lögmadur B. Marcússon efterfylgiande Dómslútníngar: 1.) I Vogreka Málenu úr Skaptafelis Sýsslu.

Þad so kallada Vogreka-mal ur Skaftafells Sysslu Eystra Parte er af soddann asigkomulage. Sysslumadurenn Jon Helgason sosem Sakafalls Forpagtare hefur i *Novembr.* Manude 1775. lated tiltala og stefna Jone Kolbeinssyne, sem þa var buande a Felle i Hornafyrde til Borgarhafnar Þings þann 1ta *Decembr.* fyrer medhondlan hans a 5. Rekatriam

triam (hvør Sysslumadurenn kallar Vogrek) er sama og næst undannfared Ar hefdu uppdrifed a Fells Fiøru, hvar hann af heirt hefur nockur vitne i sømu Søk, so vel þann 1ta sem 15da *Decembr.* og sidast þañ 18. *Januarii* 1776. hvar hann þa og endelega dæmer Jon Kolbeinsson fyrer Rans og þiofnadar medferd a þessum triam, til ad missa hans Hud i Fangelse, og hanns Buslod til Kongsens forbrotna, med vidara sem same Domur innehelldur, fra hvørium Jon *appellerade* og innstefnde fyrer næstlidens Ars Løgþinges Rett, hvar þegar eingenn af hanns *Contra*-Pørtum mætte, var Løgdagur lagdur til þessa Løgþinges; Enn søkum þess ad agreiningur var um þad, hvørt þesse tre være virkelega Vogrek, sem Kongenum tilheira, edur almenneleg Rekatre, sem Lands-Drottenn a, hvar um Sysslumadur Jon aldrei hafde løglega *inqvirerad*, so begerde Jon Kolbeinsson og fieck hia Hr. Amtmanne Stephanssyne beordradann Klausturhalldarann Sr. Sigurd Olafsson til ad besigta sømu tre og *describera* þeirra beskaffenhed, hvad og skede med 6. mønnum þañ 18da *Junii* 1776. þa þau og fyrerfundust ad vanta þau *requisita* sem Logenn akveda, ad þau so kølludu Vogrek skulu med sier færa, nefnel. soddann Kienneteikn, efter hvørium þeim lysast kunne og Eigendur sier tileigna. Dagenn efter nefnel. þann 19da voru og yferheird a ny þau vitne sem aflagt høfdu sinn vitnesburd fyrer Sysslumanns Jons Helgasonar Rette, hvør þo Jone Kolbeinssyne til afelles eckert merkelegt

legt vitnad hafa, sem *Processen* syner. Endelega hef-
ur Sysslumadur Jon sialfur nu fyrer Rettenn fram-
lagt 4ar Birke-Smavidar Greiner forsigladar, sem
Sigurdur Guttormsson og Biörn Brinjolfsson kalla
*Copiur* mindadar efter þeim 4um triam, sem Sökenn
afrys, so sem þeirra *Attest* þar um *daterad* 17da *Januarii*
næstlidenn med sier ber; hvoriar Birkegreiner Rett-
urenn alytur þo ecke med sier bere nockur virkeleg
Vogreka Kienneteikn framar enn Klausturhalldara
Sigurdar Besigtelses Forretning medfærer. Þegar
allt þetta, sem þeir hier framlögdu *Processar* med sier
færa, er samanbored og athugad, so siest klarlega,
hvörsu Sysslumadurenn Jon hefur mikelega forsied
sig, so vel i Sökene sialfre sem hennar Behandling.

1mo. Med þvi ad taka þau umtvistudu tre til sin an
þess ad lata þau besigta af ödrum *ointeresserudum*
og eragta hvört þau væru Vogrek edur Rekatre.

2do Affsagt sialfur i sinne egenn Sök joddann Dom
yfer Jone Kolbeinssyne med hvorium hann skilenn
er fra Æru og Buslod, an þess ad hafa hönum
nockra sierdeiles yfersion edur Æruleises Gior-
ning yferbevisad. Þvi ad öllu þessu Male
med þess Kringumstædum vel yfervegudu, dæmest
og aliktast.

Sa Herads Domur med hverium Sysslumad-
ur Jon Helgason og hanns 8. Meddomsmenn þann
18. *Januarii* 1776, a Borgarhafnar Þinge dæmt hafa
Jon Kolbeinsson til Hudlats og Buslodar Straffs
med vidara, er af þessum Lögþinges-Rette so sem
ogrund-

ogrundadur og olöglegur aldeiles upphafenn og *Annulleradur* og skal aldrei koma honum til Erukreinkingar edur Fiarutlata i nockurn mata, enn Sysslumadur Jon Helgason fyrer soddann sina ologlega adferd, *Procedeur* og Dom, skal bæta til Kongsens 10. merkur verdaura, til Jons Kolbeinssonar i *Satisfaction* 10. hundrud a Landsvisu og til þess Islendska *Justitz-Cassa pro meliore Informatione* 1 *Rdr. Croner*; hier ad auke i *Proces* umkostnad 4 hundrud a Landsvisu. Sierhvör þeirra Meddomsmanna, sem asamt Sysslumannenum hafa afsagt og underskrifad þennann Dom, skulu betala til Kongsens 1. mörk og i *Satisfaction* til Jons Kolbeinssonar 60. al. samt i *Process* umkostnad 30 al. *Actor* i Herade Þorsteirn Palsson fyrer hanns grofu Inlegg og i Rettesettelser betale til Jons Kolbeinsonar i *Satisfaction* og *Process* umkostnad 1 hundrad a Landsvisu. Bæturnar til Kongsens erleggest til Landfogetans a næsta Lögþinge 1778 enn til Jons Kolbeinssonar Heimeles betalest þær tildæmdu Bætur af Hlutadeigendum i godum og gildum aurum innann næstkomande Michelsmessu, allt under adför og *Execution* ad Lögum.

2.) I Barnsfadernes Lýsingar Sök Vigdísar Hoskullsdóttur uppá Jón Kolbeinsson.

Sysslumadurenn Jon Helgason hefur lated Hreppstioranu Sigurd Guttormsson innstefna Jone Kolbeinssyne til Borgarhafnar þings a þann 30. *November*. 1775. til ad afleggia hanns triunar Eyd fyrer Barnsfadernes Lysingu Vigdisar Hoskuldsdott-



ur

ur uppa hann, enn þegar Jon mætte efter Løgdags leggingu fyrer Rettenum þann 14da *Decembr.* næst efter, og uppastod ad fa Benægtelses Eyd aflagdann i somu Søk, so þikest Sysslumadurenn ei kunna hanns Eyde mottoku veita i forevending af þvi *protesle* sem sa þa tilskickade *Actor* Þorleifur Halldors son þar a mote giort hefde, helldur innstiller soddann Eyds anteckning og aflegging til næsthalldande Løgþinges Rettar, hvør Sysslumannsens adferd strider þvert i mote Laganna *formalitete*, hvørs vegna dæmest og aliktast.

Hierads Domur Sysslumannsens Jons Helgasonar afsagdur þann 14. *Decembr.* 1775. i Barnsfadernes Lysingar Søk Vigdisar Høskuldsdottur uppa Jon Kolbeinsson er af þessum Løgþinges Rette so sem oreglulegur aldeiles upphafenn, enn Sysslumadurenn Jon skyldugur dæmdur uppa sinn eigenn Kostnad þessa Søk ad forfriska, Partana fyrer Rett løglega ad innkalla og *Examinera* samt endelega i Søkenne *procedera* efter Laga og Rettar fyrermælum, i þessa *Process* umkostnad betalar Sysslumadur Jon til Jons Kolbeinssonar 2 hundrud a Landsvisu i godum og gildum aurum innann næstkomande Michelsmessu under adfør og *Execution* ad Løgum.

Frá þessum Dómum appellerade Sýsslumadurenn Jón Helgason til ædre Rettar.

3.) I Fiárupprekstrar Søk Gunnars Jónssonar á móte Peturseyar ábúendum.

Underrot og Efne þessarar so kalladrar Fiarupprekstrs Sakar, ris ut af þvi ad Mr. Gunnar Jonsson

Jonsson a Dyrholum hefur um mørg undanfarenn ar haft og brukad Hagabeit a Vetrardag fyrer se sitt i Storhøfda, sem er eitt Hagbeitar Land tilheirande Jordenne Petursey, hvar fyrer hann skylde betala undergift til Peturseyar abuenda. Hausted 1775. hafa Peturseyar Bændur ecke viliad leingur lia Gunnare þetta sama Hagbeitarland, helldur raku fe hanns til baka efter ad þad var þangad komed, hvar vid Gunnar þottest af þeim oforrettadur, og hefur vered i þeirre Innbirling, ad su langa brukun hanns a þessu Platse giæfe honum Rettugheit framar ødrum til sømu Hagabeitar, hvørs vegna bader Partarner hafa þessare Søk innstefnt fyrer Rett Sysslumannsens Lyds Gudmundssonar sem halldast skylde i Storhøfda þann 20. *Novembr.* 1775. Sama dag hefur Sysslumadurenn utsett Søkene til 6ta *Maji* 1776 og þar hia epterlated ad Mr. Gunnar i midlertid mætte efter veniu Hagbeitena bruka um Veturenn, i(?)m til endelegur Domur i Søkenne geinge. Þann 6. og 7. *Maji* 1776 a Storhøfda og Hollte hefur Søkenn vered drifenn heftugt a badar sidur med vitnaleidslum og Innleggium, hvar vid þo eckert annad bevisadest, enn þad sem bader Partarner tilstodu, nefnel. ad Jordenne Petursey tilheirde þesse Storhøfde, enn i langa tima lanadur fyrer betaling til Saudbeitar a Vetrardag Dyrhola abuendum, sierdeiles Mr. Gunnare, er þar hafde og leingst bued. Ad Partanna Astædum heirdum a badar sidur hefur Sys-

 slumad-

slumadur Lydur uppsett Søkena til endelegs Doms a þann næst efterkomande 10da *Junii* þa hann ad Hollte i Myrdal med sinum 6 Meddomsmønnum dæmer ad þetta Afrettar Platz Storhøfde sie og hafe alltíd vered fullkomenn Eyenndomur Peturseyar, ad frateknu þvi Itake sem Keldudalur kunne þar i eiga, og eingenn meige sier greint Plats hagnyta framar enn Lands-Drottens edur Peturseyar Abuenda leife þad epterlate, Enn Mr. Gunnar fyrer 2ia Vetra bevísada Saudfiarbeit i Storhøfda fyrer 80 fiar hvørn Vetur betale 30. al. til Peturseyar Abuenda. Endelega er Mr. Gunnar dæmdur ad betala 15. al. til Fatækra i Sveitenne, og 4 Rdr. *Croner* til Peturseyar Abuenda. Fra þessum Dome hefur Mr. Gunnar *appellerad* til þessa Logþinges Rettar, hvar Partanner hafa framfært Sokn og Vørn under endelegann Dom, sem ad Søkenne a badar sidur yfervegadre fellur soleides:

Heradsdomur Sysslumannsens Lyds og hañs Meddomsmanna affsagdur ad Hollte i Myrdal þañ 10da *Junii* 1776. i Fiarupprekstrar Søkenne i Storhøfda millum Mr. Gunnars Jonssonar a Dyrholum og Peturseyar Abuenda er af þessum Logþinges Rette stadfestur so vidt Hofudsøkena snerter, einenn er Gunnar skyldugur dæmdur ad betala refiulaust Peturseyar Abuendum þær 30 al. fyrer 2ia Vetra Fiarbeit i Storhøfda, sem Hieradsdomureñ hønum uppaleggur. Adrar Bætur og *Procefs* uñkostnadur sem dæmt hefur vered af Mr. Gunnare

er

er frafalled so sem Sysslumadurenn sialfur i sinu Opsettelse af 20. *Novembr.* 1775. hefur ansied Søkena fyrer *dubieus*, og þar ad auke efterlated Gunnare Hagabeitena iñtil endelegur Domur i henne geinge. *Process* Kostnadur til þessa Løgþinges er þar fyrer helldur eingenn af Mr. Gunnare dæmdur.

## Num. XIX.

Sama dag var upplesenn Herads Rettar Stefna af Dato 19. Aprilis 1777. under nafne Gudmundar Jónssonar, hvar med stefnest Helge Vigfússon til ad mæta ad Grund i Eirar-Sveit til ad þola Dóm fyrer Þiófnad og Uppbrot Grundarfiardar Høndlunar Húsa; Uppá Stefnuna var skrifud Løgdags Legging til nefnds Helga af 2. Júnii næstl. ad mæta á ádurnefndum Stad þann 29. Augusti yfirstandande árs.

## Num. XX.

Sama e. m. settest i Løgrettu Hr. Løgmadur B. Marcússon, mættu so Sýsslumadurenn Jón Jacobsson uppá Landþingskrifarans Sigurdar Sigurdssonar vegna og framlagde eina Løgþinges Rettar Stefnu under Hende og Signete Hr. Løgmannsens Biorns Marcússonar af Dato 3. Decembr. 1776. hvar med stefnest Sýsslumadurenn i Rangárþinge Sr. Jón Jónsson so sem Setteddómare i þvi so kallada Reka Staurs Måle og hanns 6. Meddómsmenn til ad mæta hier fyrer Løgþinges Rettenum og forsvara þeirra Dómara adgiørder og þann 8da Júlii 1776. affagda Hierads Dóm, eirnenn stefnest Sýsslumadur Steindór Finnsson sem vidkomande Målspartur til sømu Sakar ad svara med vídara sem nefnd Stefna medfærer, upplesenn not. Lit. A. Þvi næst framlagde hann Proces og Dóm geingenn af adjungeret Sýsslumanne Jóne Jónssyne og 6. Meddómsmonnum dat. 21de Martii, 3. Júnii og 8da Júlii 1776. i hvørs slútningu dæmest Landamerke Stórahrauns

og Haeyrar á Eirarbacka her efter ad vera sem hingad til vered hafa med tilteknum Landamerkium, enn tred sem Processen afrís, markad med Stórahrauns Marke, skule Landþingskrifarenn Sigurdur Sigurdsson og Jón Jónsson á Haeyre hafa flutt á Heimile Sýsslumannsens Steindórs Finnssonar og betala til hans hvor fyrer sig 3 Rdr. Croner med vídara sem same Dómur medfærer, uppleseun not. Lit. B. Innlegg framlagde Sýsslumadur Jacobsson under nafne Landþingskrifarans Sigurdar Sigurdssonar af 1ta hujus, sem er hanns Paastand og Irettesettelse mót Settedómaranns adgiørdum med vídara, uppleseð not. Lit. C. Innlegg framlagde Sýsslumadur Jón Jónsson under sinu nafne af 17da hujus hvar inne hann demonstrerar Sakarennar ásigkomulag, uppástendur síns Dóms Confirmation med vídara, uppleseð not. Lit. D.

## Num. XXI.

Þann 19. Júlii affagde Hr. Løgmadur S. Sølvason efterfilgiande Affsigt i þeirre under Num. 17, vid Retten anhængig giørdu Søk.

Þad hefur ad undannfornu og hingad til hvørke vered Løg nie sidvenia ad fyrertaka Klaustranna Uttekter nie uppákenna her í Løgþinges Rettenum, Sysslumanna Dómar sem og Skifte Forretníngar eru ad vísu sóddann *affaires*, sem Løgenn bióda, ad fyrer Løgmanns Dóm skule og meige innstefnast. Enn Kóngsens Reikníngsskaps Saker ecke, hvøriar jafnlegá hafa *sorterad* under *Cammeretz*, edur Amtmannanna *Decisioner*. Alt so hvad Þíngeyra Klausturs Uttektar og Alags Forretníng er áhrærande, kann ecke helldur hier ad fyrertakast, nie uppákennast, fyrer utann eina sierdeilis Kóngl. edur *Cammerets* Befalíng, og er þvi þeirre Løgþinges Rettar Stefnu hvar med Sysslumadurenn Sr. Magnús Gíslason hingad er innstefndur, fyrer hanns Uttektar og Alags Forretníng á nefndu Þíngeyra Klaustre, aldeiles fráviísad, so sem frá einu *Incompetent foro*.

## Num. XXII.

Sama

